# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga,
gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, SEPTEMBER 1902. NR. 7.

## Sorgarskýið á Stóranúpi.

Ljóð, orkt af hr. Benedikt Gröndal, þá er það fréttist, að frú Ólöf Jóhannsdóttir, hin ágæta eiginkona séra Valdemars Briem, væri látin, 17. Marz síðastliðinn.

(Lag: Þann signaða dag vér sjáum enn.)

1. Nú dró yfir austrið daprt ský
og dimmir á fjarrum tindi;
og ei er sú stundin heit og hlý,
því helið er í þeim vindi;
nú þung yfir landið sígr sorg —
og svona fer lífsins yndi.

2. Hvað margr er ei úr manna sveim
til moldar úr lífi borinn,
og ókunnugt nafnið öllum heim
og engin á jörðu sporin!
En nú er allt annað, nafnið þitt
er nýtt eins og rós á vorin.

3. Þú fallega rós af fögru tré,
þó fölnaðr sé þinn blómi,
þín lofsæla mynd í landi sé,
hún lifir hjá oss í tómi;
en sjálf ertu œðra sett í heim,
og sæl eftir herrans dómi.

4. En hér er svo margt í moldu lagt,
sem mönnum var gefið fáum;

og það verðr ei í sögum sagt,
því slíku vér ekki náum.
En grátstafr okkar heftir hrós,
og hvergi vér gleði sjáum.

5. Nú þegir hin skæra skáldsins rödd,
er skrýðist þú dauðans hjúpi,
því þú ert úr vorri veröld kvödd—
og von er þó landið drúpi.
Það harmanna svarta sorgarský
nú sitr á Stóranúpi.

6. En mannanna börn, hvað viljum vér
um vizkuna drottins tala?
Hann ræðr og setr allt, sem er,
og annast um blómið dala.
Hann vekr og slökkvir lífsins ljós
og leiðir til æðri sala.

## Skilyrðin fyrir því, að maðr sé hœfr sunnudagsskólakennari.

Ritgjörð eftir hr. Ólaf G. Anderson, lesin af honum á sunnudagsskólaþingi að Garðar, N.-D., 27. Júní 1902.

Eg vil leitast við að nefna fá af þeim mörgu skilyrðum, sem maðr þarf að hafa til þess að geta verið hœfr sunnudagsskólakennari.

Fyrsta skilyrðið tel eg það, *að kennarinn sé maðr vel kristinn*. Oss kemr víst öllum saman um, að tilgangr og verkefni sunnudagsskólans sé það að kenna börnunum kristindóminn, gjöra þau kristin, leiða þau til Krists. Sé það markmið sunnudagsskólans, þá skilst oss það víst líka, að þeir, sem það takast á hendr, þurfa sjálfir að vera vel kristnir, þurfa sjálfir að þekkja veginn. Líferni þeirra utan skóla verðr að vera í samrœmi við það, sem þeir kenna á sunnudögunum. Annars geta þeir ekki kennt með þeirri alvöru og einlægni, sem þó er svo nauðsynleg við kennsluna. Og svo hefir það mjög skaðleg áhrif á nemendrna, ef kennarinn ekki leitast við að lifa eins og hann kennir, og það dregr úr þeim góðu áhrifum, sem sunnudagsskólinn ætti að hafa á œskulýðinn.

Annað skilyrðið er það, *að kennarinn sé nægilega vel að sér*, sé vel upplýstr í guðs orði,—hafi fengið góða kristindómsuppfrœðslu, svo að hann skilji öll höfuðatriði vorrar lútersku trúar.

Þriðja skilyrðið er, *að hann hafi nægan og góðan vilja*, að málefni kristindómsins sé honum áhugamál, að hann vilji leggja mikið í sölurnar fyrir það mál. Kennarinn þarf að leggja mikið á sig. Hann verðr að hafa mikla umhyggju og mikinn undirbúning, ef kennslan á að verða að tilætluðum notum.

Fjórða skilyrðið er, *að kennarinn kunni að kenna.* Það eru margir menn vel að sér, er þó ekki kunna að kenna öðrum. Og að sjálfsögðu standa þeir þar enn verr að vígi, sem aldrei hafa sjálfir gengið í skóla. Því kennsluaðferðin ætti að vera lík því, er viðgengst í hinum almennu barnaskólum hér. Kennarinn ætti sem allra mest að kenna með því að spyrja börnin út úr lexíunni; og verðr hann þá að gæta þess, að spurningarnar sé stuttar, en skýrar, svo að þær krefjist sem allra mest beins svars. Hann ætti að varast allar þær spurningar, sem mætti svara á marga vegu, því þær ekki að eins rugla skilning nemendanna, heldr eru þær líka oft bein orsök í því, að börnin ekki þora að svara, af því þau vita ekki, hvort kennarinn á við þetta eða hitt ; en við það, að geta ekki svarað spurningum kennarans, missa þau álit á honum sem kennara og virðing fyrir skólanum. Spurningarnar ætti að vera sem mest þannig, að þær skýrði hver af annarri samhengið í lexíunni, sem oft er tekin úr mörgum mismunandi köflum í biblíunni, en hafa þó ætíð eitthvað sameiginlegt. Enginn skyldi hafa mikil rœðuhöld eða prédikunaraðferð við börnin, og varast skyldi allar margbrotnar og flóknar útskýringar. Betra er, að barnið fari heim úr skólanum með eina hugsun vel skýra, en með alla lexíuna hálfskilda.

Fimmta skilyrðið *er, að kennarinn sé vel undirbúinn.*

Enginn er svo vel að sér, að hann ekki þurfi undirbúnings við. Undirbúningr getr verið margskonar, og allr undirbúningr er víst til nokkurs gagns; en þó má ganga að því vísu, að ein aðferð geti verið betri og hentugri en önnur.

Sunnudagsskólakennararnir í Minneota hafa eina undirbúningsaðferð, sem eg vildi leyfa mér að mæla með, ekki vegna þess, að hún er til orðin þar og eg álíti hana betri fyrir það, heldr vegna þess, að árangrinn er auðséðr í skólanum. Kennslan, sem auðvitað er að mörgu leyti enn ábótavant, hefir þó tekið miklum framförum síðan þessi kennsluaðferð var upp tekin. En hún er í því fólgin, að kennararnir koma saman á fund einu sinni í hverri viku til að búa sig undir kennsluna næsta sunnudag ; hafa þeir þá reglulegan skóla, og kennir einn af kennurunum þá hinum, svo annar á næsta fundi, o.s.frv. Búizt er við, að allir kennararnir sé vel kunnugir lexíunni ; sé búnir að lesa hana, og þær útskýringar, sem fyrir hendi eru, áðr en þeir koma á fundinn, en þó einkum sá, sem í það skifti á að kenna. Hann verðr að vera sérstaklega vel undirbúinn. Það, sem mælir með þessari aðferð, er það, að sá, sem á að kenna í það og það skifti, verðr að leggja mikið á sig við að læra lexíuna svo vel, að hann geti komið fram, ekki að eins fyrir kennarana, sem hann ef til vill veit að eru honum fremri að einhverju leyti, annaðhvort vegna lengri reynslu í kennslustarfinu, eða vegna meiri hœfileika, heldr líka fram fyrir prestinn, sem ætíð er viðstaddur og hlustar á og þá oft gefr leiðbeiningar á eftir, ef honum finnst einhverju ábótavant við kennsluna, annaðhvort ekki nógu vel útskýrt, eða spurningarnar ekki nógu skýrar, eða það, að kennarinn hafi ekki getað dregið fram hina andlegu hlið lexíunnar eins og hina sögulegu. Það er ekki áreynslulaust fyrir þá menn, sem aldrei hafa gengið í skóla sjálfir, að koma svona fram til að kenna öðrum, ef til vill langtum fœrari mönnum. En einmitt við áreynsluna aukast kraftarnir ; og kennarinn, sem í fyrsta sinn kemr fram með hálfum huga og hugsanina á víð og dreif, fær við œfinguna meira hugrekki, og lærir að hugsa og kenna miklu skipulegar, og þá auðvitað kemr fram í skólanum miklu hœfari en annars. Þessir kennslufundir hafa líka það gott í för með sér, að hœgra er fyrir prestinn og formann sunnudagsskólans að komast eftir hœfileikum hvers kennara, og hvar hver einn sé líklegastr til að gjöra mest gagn í skólanum ; því einn kennari getr

verið vel hœfr til að kenna fullorðnu fólki, en lítt hœfr til að kenna smábörnum, eða hann getr verið góðr að kenna smábörnum, en óhœfr til að kenna fullorðnum. Á þessum kennarafundum læra allir kennararnir lexíuna eins, og þá auðvitað kenna þeir hana eins. Mikil ómynd væri það, ef í sama skólanum kenndi einn kennarinn öðruvísi en annar, eða ef einn legði áherzlu á eitt atriði lexíunnar og annar á annað, vegna þess, að annarhvor eða báðir hefði ekki fundið aðalinnihaldið, brennipunktinn í lexíunni. Fundir þessir eru líka aðhald fyrir kennarana og koma því til leiðar, að þeir ekki koma óundirbúnir í sunnudagsskólann, sem annars svo oft á sér stað.

En nú verðr sagt, að það sé ekki hœgt að koma þessu við nema í bœjunum; út til sveita sé það ómögulegt. Eg hygg, að ef viljinn er góðr og áhuginn nógu sterkr fyrir sunnudagsskólamálinu, þá megi koma því svo fyrir, að slíkr undirbúningr geti verið hafðr líka í sveitum úti. Guðsþjónustur eru víst oftast haldnar þar um hádegisbilið; og sýnist mér þá, að kennarar sunnudagsskólans gæti komið saman einni eða hálfri annarri klukkustund áðr og undirbúið sig með því fyrirkomulagi, sem að framan er bent á.

Sjötta skilyrðið fyrir því, að maðr sé hœfr kennari er það, *að hann hafi aðlaðanda viðmót.*

Vér vitum, að sumir menn hafa eitthvað það við sig, sem dregr hugi annarra að þeim, og aðrir hafa eitthvað það við sig, sem er fráhrindanda. Þeir geta verið að öllu öðru leyti jafnir; en þessi munr á lyndiseinkunn og viðmóti þeirra getr gjört hina fyrrnefndu því betr hœfa til kennslustarfsins sem hann gjörir hina síðarnefndu til þess óhœfa. Annar kennari hefir ætíð fullan bekk, en hinn tóman.

Eg hefi svo ekki þessar ófullkomnu bendingar lengri. Eg vil að eins geta þess, að þetta velferðarmál vort, sunnudagsskólamálið, er ef til vill mikilvægasta málið, sem vér nú höfum meðferðis hér á kirkjuþingi, og ættum vér að leggja alla mögulega rœkt við það. Undir því, hvernig oss tekst með sunnudagsskólann, er að mjög miklu leyti komin framtíð ungmenna vorra í kirkjulegu og kristilegu tilliti. Látum oss

þá sem allra fyrst koma góðu lagi á sunnudagsskólana hjá oss, og umfram allt verum vandir að kennurum.

## Hin „hærri kritík".

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

I.

Talsvert hefir nú um þetta efni verið ritað fyrir oss Íslendinga þessi tvö síðustu ár. Aðalmennina, sem mælt hafa í riti með „hærri kritíkinni" hjá oss, þarf ekki að nefna. En eitt það orð, sem einna fyrst og oftast hefir verið á vörum þeirra, er vísindi — eða vísindaleg rannsókn. Þetta síðara orðtæki er að eins til ofr lítillar útskýringar. Því hugmyndin um rannsókn felst í orðinu vísindi. Orðið „vísindi" er mjög aðlaðanda. Það er óhætt að segja, að fyrir nútíðar-mennta-menn marga sé það algjörlega töfranda. Það dregr þá að sér með einhverju svo merkilega sterku og unaðsríku segulafli. Orðið „vísindi" er einskonar átrúnaðargoð nútíðar-menningarinnar. Það er því mjög fyrirgefanlegt, þótt Íslendingum þeim, sem gjörzt hafa talsmenn hinna nýju kenninga um biblíuna, þyki gaman að velta þessum orðum „vísindi" og „vísindaleg rannsókn" á tungu sinni og vilji gylla skoðun sína með svo fögrum nöfnum.

En það er ekki nema í mjög takmörkuðum skilningi, að „hærri kritíkin" getr talizt til vísindalegrar rannsóknar; og vel líklegt er það, að þegar menn, sem ekkert þekkja til, heyra „hærri kritíkina" nefnda vísindalega rannsókn, þá hugsi þeir, að það sé miklu meiri vísindi í sambandi við það mál en í raun og veru er.

Vísindi nefnist öll sú þekking mannanna, sem þeir hafa safnað sér og náð haldi á fyrir rannsókn sína á því svæði tilverunnar, sem skynseminni er unnt að komast að, og svo skipað niðr í eðlilegar deildir eða flokka. Þannig hefir jarðfræðingrinn skoðað kletta jarðarinnar með skeljum þeirra, dýraförum og mismunandi lögum, þangað til, eftir feikna-fyrirhöfn og óþreytanda samanburð, honum tókst að marka niðr jarðmyndunartímabilin í réttri röð og lýsa lífi dýra og jurta, sem

áttu heima á hverju þeirra út af fyrir sig—, með öðrum orðum: að lesa með fullkominni vissu, að minnsta kosti í mörgum meginatriðum, sköpunarsögu jarðarinnar út úr klettunum.

Þetta er sýnishorn af vísindalegri rannsókn í öllum greinum vísindanna. Vísindamaðrinn leggr hönd sína á eitthvað, sem er fastákveðið eða áþreifanlegt, og hann sýnir heiminum það. Heimrinn trúir því, ef til vill, ekki undir eins. Hann verðr líka að rannsaka til þess að vita, hvort þetta er víst eða ekki; en sé þetta áreiðanlegt, þá má hann til að trúa; og þessi uppgötvun tekr sér svo sæti í musteri vísindanna. Sé þetta að eins tilgáta, tilheyrir það ekki vísindum, hversu margir vísindamenn sem kunna að fallast á, að það sé rétt. Það er t. d. meiri hluti nútíðar-vísindamanna, sem fellst á breytiþróunarkenning Darwins í öllum aðalatriðum. Þó er hún ekki vísindi, fyrir þá sök, að hún er ekki sönnuð. Hún er enn að eins tilgáta, sem mönnum yfir höfuð finnst meira eða minna sennileg.

Það er langt frá því, að allt starf vísindamanna sé orðið að vísindum. Í sambandi við það einmitt er allr ágreiningrinn. Eðlilega vilja allir menn halda því fram, að það, sem þeir staðhœfa, sé sannað. Þess vegna er ósönnuðum tilgátum oft haldið að oss og sagt: ,,Þetta er sannað. Allir vísindamenn Norðrálfunnar trúa þessu. Þú ert heimskingi og á eftir tímanum, ef þú ekki trúir líka.''

Mjög merkileg vísindaleg rannsókn snertandi biblíuna hefir átt sér stað í seinni tíð. Hún hefir verið fólgin í því að grafa upp úr rústum gamalla borga bókasöfn austrlandaþjóðanna. Ógrynni af leirspjöldum með letri á hefir fundizt austr í Mesopotamíu-dalnum. Þau spjöld hafa ómetanlegt gildi fyrir sögu þeirra þjóða, sem þar bjuggu endr fyrir löngu; en jafnframt varpa þau miklu ljósi yfir sögu Gyðingaþjóðarinnar sökum sambands þess, sem var milli hennar og þjóðanna austr í dalnum. Því Mesopotamíu-dalrinn var fyrsta heimkynni Abrahams. Austr í þann dal fór þjónn hans til að leita Ísak kvonfangs. Þangað fór Jakob til að flyja undan Esaú. Úr þeim dal norðanverðum komu þeir Sargon og

Salmanassar, sem unnu og eyddu Ísraelsríki. Úr suðrparti dalsins kom Nebúkadnesar, sem lagði Jerúsalem í rústir. Í þeim dal voru Gyðingar í herleiðingar-útlegðinni í 70 ár. Margt í sögu Gyðingaþjóðarinnar er því náknýtt við sögu þjóðanna í Mesopotamíu-dalnum. Ef nú saga sú, sem biblían hefir meðferðis, væri mjög óáreiðanleg, mætti að öllum líkindum þarna fá áþreifanlegar sannanir, sem hefði vísindalegt gildi, fyrir því, að í henni sé svo eða svo margar sögulegar villur. Auðvitað má vel segja, að þegar tvær bœkr liggja fyrir manni og sín segir hvað um eitthvert ákveðið efni, þá hljóti maðr og að vera í vafa um það, hvor segir satt. Maðr hafi ekki meiri vissu fyrir því, að leirspjöldin í Babýlon segi satt frá, fremr en hinar helgu bœkr Hebrea. Engu að síðr verðr þó auðsætt, þegar allt er nákvæmlega borið saman, að allmikið af því, sem fyrir liggr, hlýtr að vera óyggjandi sannleikr. Þetta er vísindaleg rannsókn. Ef biblían væri í sögulegu tilliti óáreiðanleg bók, myndi henni af þessu búin vera hin mesta hætta. En hver hefir svo reyndin orðið? Sú, að í öllum verulegum atriðum hefir þessi rannsókn orðið sögulegum áreiðanleik biblíunnar til stuðnings. Hér skal bent að eins á eitt dœmi í þessu sambandi. Það dœmi er reyndar ekki úr Mesopotamíu-dalnum, heldr frá Egyptalandi. En það stendr nákvæmlega eins á með Egyptaland í þessu tilliti eins og Mesopotamíu-dalinn. Það land kemr við sögu Gyðingaþjóðarinnar, og það á jafnvel enn þýðingarmeiri hátt en Mesopotamíu-dalrinn.

Fyrir árið 1887 var því haldið fram af fjölda lærðra manna, sem voru að eiga við rannsókn biblíunnar, að Mósesbœkrnar og Jósúabók (sexbóka-safnið, sem nú er kallað), gæti ekki verið ritaðar af þeim, sem þær bœkr eru kenndar við, fyrir þá sök, að ritlistin hafi þá ekki verið kunn á því svæði. En það ár fannst í gryfju hjá Tel-el-amarna, þorpi einu í Egyptalandi, heilt safn af leirspjöldum með samskonar fleygletri og vér finnum hjá Mesopotamíu-mönnum. Þessi spjöld voru mestmegnis bréf frá konungum og landstjórum á Sýrlandi, Fönisíu og Kanaanslandi til konunganna Amenophis III. og Amenophis IV., sem ríktu á Egyptalandi frá því hér

um bil árið 1500—1430 f. K., eða með öðrum orðum rétt á sama tíma, sem þeir Móses og Jósúa voru uppi. Þetta sannar, að fleygritun var þekkt í öllum þessum löndum, sem hér eru talin, á þeim tíma. Þetta sannar auðvitað ekki, að Móses og Jósúa hafi ritað bœkr þær, sem bera nöfn þeirra; en það sannar, að það var ekki ómögulegt af þeim ástœðum, sem rannsóknarmennirnir báru fram.

Í öðru tilliti hefir einnig í seinni tíð staðið yfir veruleg vísindaleg rannsókn í sambandi við biblíuna. Það er hin svo kallaða texta-,,kritík" (eða rannsókn á handritum biblíunnar). Orsök þeirra rannsókna er sú, að til eru um 2000 skrifuð handrit af nýja testamentinu frá fornöld. Þegar þau eru borin saman, koma í ljós ekki færri en 150,000 mismunandi lesmátar, ef allt er tekið til greina, svo sem breytileg stafsetning og röð orða. Að komast að vissu um það, hver sé rétti lesmátinn er verk texta-,,kritíkarinnar". Þegar á þriðju og fjórðu öld eftir Krist unnu sumir kirkjufeðrnir að því, að fá sem réttastan biblíu-texta; því jafnvel þá var farið að bera á mismunandi lesmátum. Á miðöldunum lá þetta í dái; þá var latnesk þýðing, *Vulgata*, almennt notuð í rómversku kirkjunni. Með siðbótinni vaknaði að nýju þrá til þess, að sjá biblíuna á frumtungunum með sem réttustum texta. Sá, sem gjörði mest í því tilliti fyrir gríska textann, var Erasmus. Hinn gríski texti nýja testamentisins, sem hann gaf út árið 1516, fékk almenna viðrkenning og var notaðr í öllum löndum prótestanta langalengi. En er menn loks fóru að bera þann texta saman við handritin, sem smámsaman fundust fleiri og fleiri, þá byrjaði texta-,,kritíkin" í nútíðarmynd hennar. Englendingrinn John Mill má kallast hinn fyrsti, er vann að því rannsóknarverki. Hann undirbjó útgáfu af nýja testamentinu árið 1707 og dró þar fram 30,000 mismunandi lesmáta. Þýzki guðfrœðingrinn Bengel hélt svo því starfi áfram lengra. Mill setti fram dœmið; en Bengel byrjaði úrlausnina. Það gjörði hann með því að komast að nokkrum fastákveðnum grundvallarreglum fyrir því, hvern lesmáta, af mörgum mismunandi, skyldi álíta réttan. Margir hafa svo síðan varið mestöllu æfistarfi sínu til þess að rannsaka handritin, bera þau nákvæmlega saman,

finna ný handrit, yfirfara allar fornar og merkar útleggingar, og einnig rannsaka nákvæmlega allar tilvitnanir úr nýja testamentinu í ritum hinna elztu kirkjufeðra. Helztu menn slíkir voru þeir Griesbach, Lachmann og Tischendorf á Þýzkalandi og Westcott og Hort á Englandi.

Allt þetta starf hefir verið rannsókn í hinni réttustu merking orðsins, og ekkert hefir verið gjört nema eftir hinni nákvæmustu reikningslist. Á þessu svæði vísindanna má nefna eins stórkostlega fundi og suma hina mikilvægustu í náttúruvísindum. Slíkr fundr var það t. a. m., þegar Tischendorf árið 1859 fann *Codex Sinaiticus*, elzta handrit af öllu nýja testamentinu, í klaustri við rœtr fjallsins Sinaí.

Allt öðruvísi er því varið með „hærri kritíkina“. Hún hefir enga merkilega fundi, engar merkilegar uppgötvanir til að styðja sig við. Hún er ekkert annað en hugmyndir ýmsra guðfrœðinga um það, sem sé í biblíunni sjálfri. Hennar menn rífa og tœta sundr biblíuna og hafa ekkert annað við að styðjast en sína eigin vizku, sínar eigin hugmyndir, sínar eigin tilgátur. „Hærri kritíkin“ er guðfrœðisleg stefna, en í réttri merking orðsins — ekki vísindi.

## Nýtt prédikanasafn.

Eftir séra Friðrik J. Bergmann.

Það er óneitanlega gleðilegr vottr um vaknanda kirkjulegt líf meðal vor Íslendinga, að fleiri guðsorðabœkr, einkum prédikanasöfn, eru farnar út að koma en vér höfum átt að venjast.

Nú, svo sem ári eftir að prédikanir séra Jóns Bjarnasonar komu út, birtist annað safn af sunnu- og helgidaga-prédikunum eftir séra Helga heitinn Hálfdanarson. Sonr hans, séra Jón Helgason, kennari við prestaskólann í Reykjavík, hefir valið þær úr rœðum þeim, er faðir hans lét eftir sig, og búið þær undir prentun.

Nafn séra Helga heitins hefir góðan hljóm í eyrum íslenzkra kirkjumanna. Hin yngri kynslóð núlifandi Íslendinga hefir numið kennslubók hans í kristnum frœðum á undan ferm-

ing. Sálmana hans höfum vér allir sungið, síðan sálmabókin nýja kom til sögunnar. Guðfræði sína hafa flestir ísl. prestarnir, nema þeir allra yngstu, numið við fœtr hans. Sögu hans yfir fornaldartímabil kristninnar muna allir eftir. Siðfræðinni og prédikunarfræðinni, er út voru gefnar að honum látnum, gleyma menn heldr ekki. Nú bœtist þetta safn nýrra prédikana frá hans hendi við, og mun mörgum þykja vænt um það.

Er ekki óhætt að segja, að við engan einn mann, er uppi hefir verið á síðastliðinni öld, sé ísl. kirkjan í jafn-mikilli þakklætisskuld og séra Helga?

Allt, er eftir hann liggr, ber vott um gáfaðan kristinn mann, með heitum áhuga fyrir kristindóminum, sem hefir sett sér fyrir markmið að verja öllum kröftum sínum kristninni meðal þjóðar sinnar til viðreisnar og viðgangs.

Hvort sem hann yrkir sálma, flytr fyrirlestra á prestaskólanum eða stendr á prédikunarstólnum, fylgja honum sömu einkennin: stillileg hugsun, sem þegar í stað kemr auga á aðalefnið og heldr sér fastri við það, án þess að leyfa sér nokkra útúrdúra,—glögg dómgreind, sem klýfr efnið sundr og brýtr það til mergjar, —laukrétt kirkjuleg smekkvísi, sem ætíð finnr hverri hugsun og hverri ritsmíð, er eftir hann liggr, lýtalaust kirkjulegt snið og fastákveðið kirkjulegt mót,—samvizkusöm vandvirkni, sem ekkert ómak telr eftir sér til þess að verkið verði eins vel af hendi leyst og föng eru til. Andrúmsloft kirkjunnar, sem hann elskaði, er í hverri setning, sem eftir hann liggr.

Gáfurnar sjást bezt á því, hve allt, sem hann hefir ritað, er skýrt og ljóst. Það er þaulhugsað fyrirfram og ekki sett á pappírinn fyrr en það er hverjum alþýðumanni skiljanlegt. Og skipulagið í framsetning hans er oftast nær fyrirmynd. Hann hefir kunnað þá list, að leiða hugsanir sínar til sætis, ekki síðr en láta þær vera sœmilega til fara.

Hjartað kemr einnig til greina, einkum í sálmunum hans og rœðunum. Eg þarf ekki annað en benda á sálminn 611 í sálmabókinni: ,,Í dauðans faðm nú fallið er'', þar sem maðr finnr hjartað titra undir hinum stillilegu og trúarstyrku orðum

föðursins yfir látnu barni; um þann sálm þykir mér líka, og eg hugsa mörgum öðrum, einna vænzt af öllum frumorktu sálmunum hans. Og í þessum prédikunum verðr ósjaldan vart við hjartað, sem titrar, þó miklu meira beri á hinni rólegu skynsemi, sem leggr niðr lífsins veg fyrir ungum og gömlum, varar við hinum vonda vegi og brýnir fyrir lesendunum hvert heilræðið úr guðs orði á fœtr öðru.

Þessar prédikanir séra Helga hafa marga kosti, og skal eg í fám orðum benda á hina helztu þeirra.

Þær eru allar um *ákveðið efni, sem haldið er fast við*. Enginn er í vafa um, hvað verið sé um að tala. Þar er ekki sitt orðið úr hverri áttinni, eins og of oft mun hafa átt sér stað í ísl. rœðugjörð. Þetta efni er ávallt liðað sundr, oftast í þrjá eða fjóra liði, með hinni mestu nákvæmni. Hver rœða er látin byrja með hœfilega löngum inngangsorðum. — Ekki er laust við, að þessi nákvæmni verði stundum of mikil og þessi tilbreytingalitla niðrskifting ofr lítið þreytandi. Henni er hætt við að gjöra rœðuna fremr þurra og draga nokkuð úr því andríki, sem ávallt verðr eitt hið göfugasta einkenni prédikarans. Þess vegna hafa menn nú víðast hvar lagt þetta rœðusnið niðr. En það hefir þann kost, að einlægt er talað um efnið og enginn útúrdúr tekinn.

Rœðurnar eru allar *ljósar* og *einfaldar og lausar við alla fordild*. Engin tilhneiging hjá höf. að vekja þá tilfinning hjá öðrum: Þetta er falleg rœða! Þar er blátt áfram verið að flytja guðs orð, einfaldlega og óbrotið. Og prédikarinn dylr sjálfan sig á bak við drottin, til að draga ei úr dýrðinni hans. — Þessi einfaldleiki í rœðugjörð hefir ávallt verið álitinn ein hennar göfugasta einkunn. En allir góðir hlutir hafa oftast nær einhvern ókost í för með sér hjá oss mönnunum. Það er svo hætt við, að rœðan verði eitthvað litlaus og áhrifalítil, þegar persóna prédikarans dylst mönnum;—honum er þá gjarnt til að tala í almennum orðatiltœkjum og hugsanirnar slá mann ekki með því afli, sem œskilegt er. Tilheyrendrnir heimta með réttu, að fá að skyggnast inn í sálarlíf þess manns, sem guðs orð boðar, og fá eitthvað að vita um, hvað það hefir o stað hann að eignast þessi sannindi og með hverju móti þau

hafa orðið lifandi í sálu hans. Páll og Jóhannes koma býsna greinilega fram í ritum sínum, og oss þykir vænna um þau fyrir bragðið; það er ekki þeim til lýta, heldr til hróss.

Þær eru *há-evangeliskar* í orðsins bezta skilningi. Höfundinum er um að gjöra að leggja fram evangelíum drottins vors Jesú Krists í hreinni og fullkominni mynd, án þess að fella úr eða bœta við.—En hver kynslóð þarf að finna til þess, að sú prédikun, sem hún heyrir, hafi eitthvað nýtt til brunns að bera. Hið nýja, er sú kynslóð, sem heyrði séra Helga heitinn prédika, fann hjá honum, ímynda eg mér að hafi verið hið fullróma, greinilega tungutak,—skýrari mynd af persónu frelsarans og gleggri skilgreining hinna kristilegu hugmynda en menn höfðu áðr átt að venjast. Og í allt þetta er mjög mikið varið. En nú er ný kynslóð komin til sögunnar. Hún finnr nú að sönnu þetta sama í rœðum séra Helga. En þyrstir hana ekki eftir einhverju öðru? Hafa eigi nýjar þarfir og nýjar kröfur risið upp hjá henni? Hefir hún ekki sérstakar efasemdir og freistingar við að stríða? Þarf ekki eitthvert nýtt lag til að ná athygli hennar og draga huga hennar að sannindum trúarinnar? Mun henni ekki finnast, að þetta hafi hún áðr heyrt og hér ekki vera svör upp á þær spurningar, er hún geymir í hjarta? Mun hún finna hér hið gamla evangelíum í þeim búningi, sem beztum tökum nær á huga hennar?

Eg býst við, að það verði fremr hinir eldri en hinir yngri, sem láta sér finnast þessar rœður til sín stílaðar. Og það er öldungis eðlilegt. Það eru sjálfsagt nokkuð mörg ár síðan þær voru fluttar. Og hugsunarháttrinn breytist og með honum kröfurnar. Guðs orð er í sjálfu sér ávallt hið sama. En það þarf stöðugt að fá nýja og lifandi mynd í hjörtum þeirra, er það boða. Vitnisburðrinn í kirkjunni þarf ávallt að bera vott um viðleitni til að skilja þá kynslóð, er hann snýr sér til, og hjálpa henni gegn þeim efasemdum, freistingum og ástríðum, sem henni eru hættulegastar.

Mér þykir ekki ólíklegt, að þessar prédikanir falli hinum elzta hluta hinnar núlifandi kynslóðar jafnvel betr í geð en nokkrar aðrar. Þetta rœðusnið held eg einmitt falli því fólki bezt. En sú kynslóð, sem nú er á bezta reki, mun hafa nokkuð aðrar kröfur og aðrar spurningar fram að bera.

Þær eru *hæfilega langar*, þessar prédikanir; hvorki of langar né of stuttar, eftir mínu viti. Að því leyti eru þær algjörlega sniðnar eftir því, sem bezt á við nú. Eg tel það mikinn kost. Því löng rœða þreytir, hversu góð sem hún er, nema þá við einstök tœkifœri.

Stíll höfundarins er sléttr, einfaldr og blátt áfram. Hann er hvergi eiginlega skáldlegr, miðar ekki sérlega hátt, er nærri því alveg líkingalaus; en orðin falla ætíð býsna þétt utan um hugsunina. Höf. snýr sér beint til áheyrendanna og leggr áminningar sínar þeim eins nærri og honum er unnt. Hann kemr aldrei með neitt, sem meiðir tilfinningar manna eða smekk.

Bókin er prýðilega úr garði gjör að öllum ytra frágangi, með nýju, ljómanda letri, og mynd höfundarins. Það er fullkomin ástœða til að gleðjast yfir því, að hún er komin út. Fyrst og fremst er eg viss um, að öllum, sem prédikanir þessar lesa, verða þær til blessunar og sálubótar. Og þar næst er mjög margt af þeim að læra fyrir ísl. presta, sem í svo mörgu geta tekið sér þær til fyrirmyndar. Margt fleira mætti um þær segja, en þetta verðr að vera nóg í bráð.



Kirkjan í Mikley, tilheyrandi hinum lúterska söfnuði Íslendinga þar, var vígð sunnudaginn 14. þessa mán. (16. e. trín.). Vígsluna framkvæmdi forseti kirkjufélagsins, séra J. Bj., með aðstoð þeirra séra N. Steingríms Þorlákssonar og séra Rúnólfs Marteinssonar. Séra Steingrímr prédikaði við þetta tœkifœri og lagði út af guðspjalli dagsins, sem segir frá því, er Jesús vakti upp frá dauðum son ekkjunnar í Nain. Nokkur hópr fólks var til altaris. Tveir kirkjuvígslusálmar voru í þetta sinn sungnir, sem sérstaklega höfðu verið orktir fyrir þessa stórhátíðarstund í sögu safnaðarins, og munu þeir báðir í heild sinni birtast í næsta blaði „Sam." Höfundr þeirra er hr. Magnús Einarsson, gamall guðhræddr maðr, mjög einkennilegr, sem eitt sinn átti heima í Mikley, en fluttist fyrir nokkrum árum vestr á Kyrrahafsströnd. Áðr en hann fór þangað orkti hann sálmana, skildi þá eftir í handritum hjá kunningjum sínum í eynni og bað þá sjá um, að sálmarnir væri sungnir, þá er kirkjan væri vígð.

Mikleyjarkirkja er steinsteypt hús, laglegt, þótt lítið sé. Hún stendr á fögrum stað, við Mylnuvíkina norðaustan til í eynni. Eyjarbúar reistu hana árið 1890, en ágreiningr út af trúmálum olli því lengi lengi, að hún gat ekki orðið vígð. Til var ætlazt, að vígsla kirkjunnar yrði framkvæmd í Marzmánuði síðastliðnum. En þá kom fyrir hindran sú, sem áðr hefir verið um getið í ,,Sam." (XVII, 2—bls. 20—21).

Prestr Mikleyjarsafnaðar, séra Rúnólfr, lýsti yfir því í lok kirkjuvígslu-guðsþjónustunnar, hvílíkt fagnaðarefni þessi atburðr væri söfnuðinum eftir hina löngu bið og sáru trúmálabaráttu. Þrautseigja og staðfesta þeirra manna, sem helzt hafa staðið fyrir málum safnaðarins í stríði liðinnar tíðar, er þeim til mikils sóma. Og sérstaklega eiga konurnar í Mikley þakkir skilið fyrir það, sem þær hafa gjört til þess að prýða kirkjuna.

Áðr en mjög langt líðr mun séra Rúnólfr, ef guð lofar, koma með dálítið ágrip af sögu Mikleyjarsafnaðar í ,,Sam."

---

Trúarsamtalsfundir þrír hafa nýlega haldnir verið hjá oss. Hinn fyrsti í kirkju Mikleyjarsafnaðar 14. Sept., sama daginn, sem kirkja sú var vígð, seinna um daginn. Annar í kirkju Selkirk-safnaðar að kvöldi hins 15. Og hinn þriðji í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg að kvöldi hins 18. Umrœðu-efnið á öllum þessum fundum var: *Hvað gjörir manninn sælan?* — Málshefjandi á Mikleyjarfundinum var séra Jón Bjarnason, á fundinum í Selkirk séra Hans B. Thorgrímsen, og á fundinum í Winnipeg séra Rúnólfr Marteinsson. Allir fundirnir voru fremr vel sóttir og heppnuðust yfir höfuð vel. Á fyrsta fundinum voru þrír af prestum kirkjufélagsins, þeir sömu, sem tóku þátt í kirkjuvígslunni; á öðrum fundinum fimm, einn þeirra séra Friðrik J. Bergmann; á hinum þriðja fjórir, þeir sömu sem voru á fundi Selkirk-safnaðar nema séra Friðrik, er þá var kominn út í Argyle-byggð í skólamálserindum.

---

Séra Friðrik J. Bergmann hefir nú fyrir fullt og allt setzt að hér í Winnipeg, og byrjar kennslustarf sitt á Wesley College undir eins eftir lok þessa mánaðar. Hann er ráðinn af skólamálsnefnd kirkjufélags vors til kennaraembættisins upp á 1200 dollara árslaun. Þetta mjög þýðingarmikla fyrirtœki

kirkjufélagsins bar sig vel í fjárhagslegu tilliti síðastliðið ár. Vonanda, að niðrstaðan verði eigi lakari, heldr betri, á þessu ári. Séra Friðrik hefir með talsvert góðum árangri verið að vinna að fjársöfnun í skólasjóð fyrir sunnan „línuna" áðr en hann nú í þessum mánuði kom hingað norðr til W.peg. Telja má víst, að Íslendingar í Manitoba sjái sér fœrt nú á þessu sannkallaða veltiári að leggja all-ríflega til skólasjóðsins.

---

Gjörðabók kirkjuþingsins, sem haldið var í sumar að Garðar, kom út snemma í þessum mánuði, prentuð í prentsmiðju „Lögbergs" í Winnipeg, og var að fyrirmælum kirkjuþingsins send til útsölu öllum, sem á þinginu sátu, líka hinum sérstöku erindsrekum, konum jafnt sem körlum, er sendir voru á fundina út af málum sunnudagsskólanna og bandalaganna. Verðið er 15 cts. Búizt við, að allir selji öll þau eintök af ritlingnum, sem þeim voru send.

---

Séra Jón J. Clemens hefir því miðr ekki séð sér fœrt að taka köllun kirkjufélagsins íslenzka, sem samþykkt var á ársþingi þess hinu síðasta, til þess að gjörast missíónarprestr hjá oss. Hann er fyrir skömmu orðinn fastr prestr ensk-lúterskra safnaða í Ellsworth, Wis., og þar í nágrenninu. Væntanlega er þó eigi þar með loku skotið fyrir það, að hann aftr fari að vinna fyrir félag vort.

—Séra Rúnólfr Marteinsson fór missíónarferð vestr til Þingvallanýlendu og Lögbergsnýlendu í Assiniboia í byrjan Ágústmánaðar. Hr. Pétr Hjálmsson hefir annars dvalið hjá söfnuðunum þar og unnið að kristindómsmálum þeirra síðan snemma í Júlí.

—Í missíónarerindum fór og séra Friðrik J. Bergmann í Ágúst snemma til Íslendinga-byggðarinnar við Mouse River, N.-D., og prédikaði þar sunnudaginn hinn 10. Stutt skýrsla um þessa ferð hans frá honum sjálfum kemr væntanlega í næsta blaði.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhlrðir „Sameiningarinnar".

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1: greiðist fyrirfram.—Skrifstofa „Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada,—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

---

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.